# Ágrip af fyrirlestri

um

# bæjalíf Íslendinga í Canada

eptir

**B. L. Baldwinson.**

---

[Fyrirlesturinn var fluttur á ýmsum stöðum á Íslandi veturinn 1892—1893.]



Reykjavík.

Félagsprentsmiðjan.

1893.

# Ágrip af fyrirlestri
## um
# bæjalíf Íslendinga í Canada
eptir
## B. L. Baldwinson.

---

Háttvirtu tilheyrendur!

Fyrirlestur sá, sem jeg hef boðið yður að hlýða á hjer í kveld, er um „bæjalíf Íslendinga í Canada“. Tilgangurinn er, að rjetta þá röngu skoðun, sem að mínu áliti hefir verið og er fram á þennan dag ríkjandi hjá öllum þorra fólks hjer á landi viðvíkjandi ásigkomulagi landsmanna yðar vestra og viðvíkjandi því hve dýrt sje að lifa þar o. s. frv.

Jeg ætla mjer að sanna þrjú atriði, sem ganga í gersamlega gagnstæða átt við það sem menn hjer heima hafa álitið um þau. Jeg ætla mjer að sanna:

1. að allar almennar lífsnauðsynjar sjeu að stórum mun ódýrari í Canada heldur en þær eru á Íslandi.

2. að leiðandi af því fyrsta, þá þurfi menn ekki að leggja á sig nándar nærri eins mikið líkamlegt erfiði í Canada eins og þeir þurfa á meðan þeir eru á Íslandi til þess að lifa við jafngóða kosti þar eins og þeir gera hjer heima, og

3. jeg ætla mjer að sanna, að krónan á Íslandi sje ekki einungis *ekki eins góð* og dollarinn í Canada, fyrir allan þorra af hinum algengu lífsnauðsynjum manna, heldur sjeu 4 krónur á Íslandi engu betri en einn dollar í Canada. Jeg geng ekki að því gruflandi, að mjer muni veita því örðugra að sannfæra fólk á rjettmæti skoðana minna í þessu efni, sem jeg er, mjer vitanlega, sá fyrsti og eini maður, er hefir flutt hjeðan af landi, sem flyt þessar kenningar að vestan. Jeg veit að það er tvennt sem útheimtist til þess að geta flutt þennan fyrirlestur svo að hann fullnægi þeim kröfum, sem tilheyrendur eiga sanngjarna heimtingu á, n. l.: 1. að fyrirlesarinn sje svo nákvæmlega kunnugur því mál-

efni, sem gert er að umtalsefni, að hann sje fær um að veita tilheyrendum sínum í einni samanhangandi fróðleikskeðju þau sannindi, sem þeim annars berast á vanalegan hátt í brjefum og blöðum í sundurlausum og ósamkynja mólum, og 2. að maður hafi fullt vald á því máli sem maður mælir á, og sje gæddur þeim hæfileika, að geta framsett hugsanir sínar og þekkingu svo ljóslega, að tilheyrendur fái rjetta og sanna hugmynd um þá hluti eða atvik, sem um er rætt, og að þeir af lýsingunni sjái í anda það sem lýst er, eins og sá hefir sjeð það og þekkt sem lýsinguna gefur.

Jeg geri enga kröfu til þess að geta leyst þetta af hendi svo vel sem jeg gjarnan vildi geta gert það, og jeg hefði máske ekki gert neina tilraun til fyrirlestrahalda á þessari ferð minni um Ísland, ef jeg hefði ekki orðið þess mjög áþreifanlega var í öllum þeim hjeruðum, sem jeg hef ferðast um í vetr, að fólk vill fræðast um líðan landa vorra fyrir vestan haf og að það ætlast til þess að við, sem erum sendir hingað til lands til þess að lýsa Canada og ástandi þeirra er þar búa, með sjerstöku tilliti til Íslendinga þar, leysum þetta ætlunarverk okkar þannig af hendi, að það sje nokkru nær eptir komu okkar hingað heldur en það var fyrir hana.

Jeg þykist nú að vísu, með skýrslum þeim um hagi ísl. bænda í Canada, sem prentaðar hafa verið og útbýtt um land allt, hafa lýst hinu búskapar- og efnalega ástandi þeirra er á löndum sitja svo rjett og nákvæmlega, sem mjer var unnt. En það einkennilega í þessu sambandi er einmitt það, að síðan menn fengu svo nákvæmar frjettir um þann hluta hinnar ísl. þjóðar, sem stundar þar landbúnað, einmitt síðan, segi jeg, eru menn nú miklu sólgnari en nokkru sinni fyrr í að vita eitthvað um ástand hinna, er hafast við í hinum ýmsu borgum og bæjum þar vestra.

Jeg tala hjer að eins um Canada, vegna þess, að hvorki er það í mínum verkahring að lýsa Bandaríkjunum eða högum þeirra er þar búa, enda er jeg því máli svo ókunnugur, að jeg finn mig ekki færan til að gefa neina áreiðanlega lýsing á högum landa vorra þar. Jeg skal strax taka það fram, að það er,

að mínu áliti, allsendis ómögulegt að safna skýrslu yfir efnahag þeirra er búa í bæjunum vestra á sama hátt og gert hefir verið hjá þeim sem búa á löndum, af tveimur ástæðum:

Fyrst, að menn eru gjarnan ófúsir til að telja fram þannig eigu sína eða að segja nokkuð um hana. En hún er vitanlega allmikil hjá sumum Íslendingum í bæjunum vestra. Þeim þykir hagfeldara og hættuminna að eiga peninga sína í bönkum, þar sem þeir gefa af sjer 4 prósentur árlega og engan skatt þarf af þeim að greiða, heldur en að setja þá í fasteign eða önnur gróðafyrirtæki, sem allopt eru að meira eða minna leyti undirorpin nokkurri hættu, og þar sem þeir þar á ofan verða að gjalda skatt af því fje sem þannig er varið, og sem liggur opið fyrir allra augum. En að semja yfirlit yfir efnahag Íslendinga í bæjunum vestra, eingöngu eða að mestu leyti byggt á fastri og annari sýnilegri eign þeirra, það væri þýðingarlaust verk, af því að eins nokkur hluti af eignunum gæti komið þannig í ljós. Slík skýrsla næði engan veginn tilganginum. Hún gæfi ekki og gæti ekki gefið fólki sanna og rjetta hugmynd um efnahaginn eins og hann er, og menn væru í raun inni engu nær eptir að hafa lesið slíka skýrslu, heldur en væri hún engin til.

Hin önnur ástæða fyrir því, að ekki er mögulegt að safna skýrslu yfir hagi fólks í bæjunum er sú, að ekki er mögulegt á nokkrum tíma ársins að finna alla heima í bæjum, þótt þeir telji sjer þar heimilisfestu, eigi fasteignir sínar í þeim og peninga sína í bönkum þeirra. Menn sæta vanalega vinnu þar sem bezt gegnir, og þótt menn eigi heima í einum bæ, þá vinna þeir opt tímum saman í öðrum bæjum eða á landsbygðinni, eptir því hvar vinnan er mest og bezt borguð. Og enn er sú ástæða, að kvennfólkið íslenzka í bæjum í Canada eru eigendur að allstórum hluta af hinum peningalegu eignum Íslendinga þar, og það er sannarlega eins rjettlátt að telja eigur kvenna sem karla, og þá ekki síður peningana, heldur enn aðrar eignir fólksins.

En þrátt fyrir það, þó ekki sje hægt að safna nákvæmri eða áreiðanlegri skýrslu um efnahag hvers einstaks, þeirra er búa í bæjum vestra, þá má þó leiða rök að því, að þeir búi sæmilega

vel, og að kjör heildarinnar sjeu að miklum mun betri þar vestra heldur en þau voru áður en þeir fluttu vestur, eða nokkur líkindi eru til að þau mundu hafa verið, ef þeir hefðu verið kyrrir heima, og það er þetta sem jeg ætla að leitast við að gera hjer í kveld.

Til hægðarauka ætla jeg þá að skifta bæjarbúunum íslenzku vestra niður í 3 flokka:

1. Fjölskyldufeður (undir 3 stafliðum).
2. Ógiptir karlmenn
3. Ógipt kvennfólk

Fjölskyldufeðurnir íslenzku eiga, eins og allir geta ímyndað sjer, langörðugast uppdráttar fyrst eptir að vestur er komið. Flestir koma þeir þangað efnalausir, þekkjandi ekki þarlent mál nje þjóðarháttu; þeir eru ókunnugir landinu og öllum verknaði þarlendum, og margir þeirra eiga enga vini eða ættingja, er taki á móti þeim og rjetti þeim hjálparhönd þegar þess er mest þörf. Það má í einu orði segja, að fjölskyldufeðurnir, margir hverir, komi þangað allslausir: mállausir, vinalausir, efnalausir og þekkingarlausir. En flestir þeirra hafa samt nokkuð til að styðjast við þá strax í stað. Þeir hafa líkamlegan og andlegan þrótt í fullum mæli. Það er sá grundvöllur, sem þeir geta vel byggt á alla sína tilveru og framtíðarvonir.

Ríkisstjórnin í Canada og fylkisstjórnin í Manitoba, sem af margra ára reynslu hafa fulla þekkingu á þörfum nýkominna vesturfara, hafa hvor í sínu lagi sett ísl. umboðsmenn til að leiðbeina innflytjendum, og þeir eru ekki svo fáir sem vestur hafa flutt á síðari árum, sem hafa notið leiðbeininga þessara umboðsmanna og orðið þær að góðu liði.

Fjölskyldufeðurnir finna til þess strax og þeir eru komnir vestur, engu síður en meðan þeir dvöldu hjer á ættjörðinni, að á þeim *einum* hvílir ábyrgðin að sjá konum sínum og börnum fyrir sæmilegu lífsuppeldi, og það er mjer sannarlegt gleðiefni, að geta opinberlega vottað það hjer, að flestir, langflestir þeirra uppfylla þá skyldu sína með sannri manndáð, sjálfum sjer til sóma, ríkinu til uppbyggingar og börnum sínum til sannrar

blessunar. Þessir menn eyða engum tíma til iðjuleysis, eptir að vestur er komið. Þeirra fyrsta verk er að útvega húsnæði fyrir sig og sitt skyldulið, og þar næst að semja við einhvern kaupmann um matarforða handa því, þar til þeir hafa innunnið sjer svo mikið fje, að þeir geta borgað fyrir nauðsynjar sínar jafnótt og þeir kaupa þær, eins og siður er þar í landi.

Strax og þeir hafa sjeð fjölskyldu sinni farborða, að minsta kosti um stundarsakir, sem vanalega er gert með aðstoð einhverra af landsmönnum þeirra þar vestra — því Íslendingar þar eiga með rjettu þann vitnisburð, að þeir eru hver öðrum mjög hjálpsamir, þar sem þeir sjá þörf á hjálp, — þá fara þeir strax í vinnu, annaðhvort inni í sjálfum bænum við skurðagröpt eða húsabyggingar o. fl. þ. h., eða þeir fara til bænda og vinna þá ýmist við gripahirðingu eða kornuppskeru og þreskingar, eða þeir fá atvinnu við járnbrautabyggingu, og í flestum tilfellum má telja borgunina vísa. Með dugnaði sínum og sparneytni tekst svo þessum mönnum von bráðar að afla sjer svo mikils fjár, að þeir þurfi ekki að bera þungar áhyggjur fyrir komanda degi. Jeg tala hjer ekki um þá, er jeg tel undir 1. stafl̄ið, þá sem koma með uppkomin börn, þar sem hver, eða nálega hver meðlimur fjölskyldunnar er vinnandi. Þeir hafa ekkert að óttast, þó þeir þekki engan mann. Þegar vestur kemur, liggur beint fyrir þeim að fara strax að vinna og græða.

Sama er að miklu leyti að segja um þá sem jeg tel undir öðrum staflið, þá sem eiga ættingja eða vini, sem taka á móti þeim strax og þeir koma vestur. Þeir eru úr sögunni strax og þeir mæta vinum sínum, og við stjórnarumboðsmenn erum sjaldan kallaðir til að útvega þeim atvinnu eða á annan hátt að hlynna að þeim, því allt það er gert af ættingjum og vinum þeirra. En jeg á hjer sjerstaklega við þá fjölskyldumenn, sem hafa þunga ómegð og eru efnalausir, en þekkja enga er þeir geta flúið til sem hjálpi þeim á framfæri. Það er sá eini flokkur manna sem jeg veit til að eigi nokkuð örðugt uppdráttar þar vestra.

Hjá bændum eru mánaðarvistir algengastar, og kaup vana-

lega um 30 til 35 dollars um mánuðinn með fæði. Það getur að vísu komið fyrir, þegar útlit er fyrir, að uppskeran ætli að bregðast að einhverju leyti, að mánaðarkaupgjald manna falli, verði jafnvel ekki meira en 20 doll., og einu sinni hefir það fallið niður í 15 dollara. En það er lægra en meðalkaup. Það ræður nú að líkindum, að nýkomnir vesturfarar fái nokkuð lægra kaup heldur en innlendir verkvanir menn, en þó er nú svo komið vestra, að við getum útvegað mönnum, sem nýkomnir eru, fullkomin laun strax frá byrjun; þannig fengu nýkomnir vesturfarar, sem komu til Winnipeg s. l. sumar, strax vinnu hjá ísl. bændum í Argyle nýlendu fyrir 35 doll. eða 130 krónur um hvern mánuð, og fæði og húsnæði, allt borgað skilvíslega í peningum. Hjer um slóðir þykir sá vera nýtur drengur, sem fær 130 kr. fyrir heilt árs erfiði, og má þakka fyrir að fá borgunina í — *ekki peningum*.

Þeir sem koma út í júlímánuði, eins og landar vorir gera vanalega, mega búast við að minnsta kosti 4 mánaða vinnu fram að nýári, og stundum nokkuð lengur, með vanalegu meðalkaupi; geta þeir þá innunnið sjer frá 100—130 doll., eða sem svarar frá 400—500 krónur. Með þetta fara þeir svo inn í bæina ef þeir ætla að setjast þar að. Nokkur hluti sumarkaupsins gengur þá til að borga áorðnar skuldir; afganginum er varið til að kaupa kú að parti, eða að öllu leyti, eldstó etc. Yfir veturinn geta duglegir og vinnufúsir menn jafnan fengið atvinnu við járnbrautir, skógarhögg, eldiviðarsögun o. fl. þ. h.; með köflum fá menn líka vinnu við snjómokstur eða við keyrslu á vörum o. fl., svo að menn þurfa sjaldnast að skulda yfir veturinn, þótt það auðvitað komi stundum fyrir, ef heilsubrestur eða önnur ófyrirsjáanleg óhöpp bera að höndum.

Þeir, sem vinna á járnbrautum, bera jafnan lakara úr býtum; kaup er þar að sönnu mjög áreiðanlega borgað, en það er lægra en við marga aðra vinnu; vanalega doll. 1,50 á dag, stundum nokkuð hærra. Vinnendur verða að kaupa fæði sitt á brautunum, og það dregur að jafnaði um einn þriðja part af kaupi þeirra, svo að afgangurinn hjá þeim verður tiltölulega

lítill í samanburði við þá, sem vinna úti hjá bændum eða inni í bæjunum. Jeg hef því gert það að fastri reglu, síðan jeg fór að hafa nokkra meðgjörð með ísl. innflutninga í Canada, að senda aldrei fjölskyldumenn út í járnbrautavinnu, ef annars var kostur. Með þessu er þó ekki sagt, að járnbrautavinna sje nein frágangssök, og einhverir verða að vinna að því verki, en hún er því að eins góð, að ekki sje völ á annari vinnu, er betur sje borguð.

Langbezt staddir eru þeir menn, ef þeir annars ætla að setjast að í bæjum, sem geta fengið þar atvinnu og búið þar með fjölskyldum sínum; bæði verður þeim lífið þannig ódýrast, og svo er vinnan að jafnaði bezt borguð í bæjunum, og vinnutíminn lengstur, — í minnsta lagi 7 mánuði af árinu; hina 5 mánuðina má búast við að vinnan verði að meira eða minna leyti óviss. Þó hafa daglaunamenn haft atvinnu allt árið í kring í s.l. 2 ár, og mjer þykir sennilegt, eptir núverandi útliti, að það muni halda áfram að verða svo framvegis. Í Winnipegbæ er kaupgjald fyrir rjetta og sljetta verkmenn nú sem stendur doll. 1,75 eða 6 krónur 50 au. á dag, fyrir 9 tíma vinnu, eða um 170 krónur um mánuðinn, en verð á nauðsynjavöru er aptur á móti tiltölulega ódýrt vestra. Gerum nú ráð fyrir, að almennir verkmenn á Íslandi, hvort heldur þeir eru vinnuhjú eða lausamenn, hafi 7 mánaða stöðuga atvinnu á ári og 2 krónur í kaup um dag hvern, en fæði sig sjálfir, það gerir 360 krónur. Jeg þori að staðhæfa, að þeir eru mjög fáir af algengum verkmönnum á Íslandi, sem hafa 360 krónur um árið, og þess vegna er það full hátt reiknað, að setja daglaunin á Ísl. á 2 krónur, á móti 6 kr. 50 aurum í Canada. Til þess nú að sannfæra yður um það, að allar almennar lífsnauðsynjar sjeu ódýrari í Canada heldur en þær eru á Íslandi, og að það þar af leiðandi sje kostnaðarminna að lifa þar heldur en að lifa hjer, þá ætla jeg að sýna yður, hversu mikið af hverri einni af eptirtöldum vörutegundum þjer fáið þar fyrir dagsverkið í samanburði við það sem þjer fáið hjer á landi af sömu vörum. Þjer fáið fyrir dagsverkið

| í Canada: | | á Íslandi: |
|---|---|---|
| 75—100 | pd. af ágætu hveiti . . . . . . . . . . | 13—15 pd. |
| 50 | — — haframjöli . . . . . . . . . . . | 13—15 — |
| 40 | — — bankabyggi . . . . . . . . . . | 15—17 — |
| 30—35 | — — hrísgrjónum . . . . . . . . . . | 13—15 — |
| 21—25 | — — höggnum hvítasykri . . . . . . | 6—7 — |
| 30 | — — röspuðum —— . . . . . . . | 7 — |
| 35—40 | — — púðursykri . . . . . . . . . . | 8 — |
| 5 | — — te . . . . . . . . . . . . . . | 1 — |
| 7 | — — kaffibaunum . . . . . . . . | 2 — |
| 4½ | — — sjúkolaði . . . . . . . . . . | 2—3 — |
| 15—20 | — — rúsínum . . . . . . . . . . | 7 — |
| 12—30 | — — nýju nautakjöti . . . . . . . | 6—10 — |
| 14—20 | — — — sauðakjöti . . . . . . . . | 13—20 — |
| 14—20 | — — kálfskjöti | |
| 30 | — — svínsfleski vanalega . . . . . . | 4 — |
| 35 | potta af mjólk . . . . . . . . . . . | 10—17 pt |
| 11 | pd. af osti . . . . . . . . . . . | 2—3 pd |
| 12 | — — hangnu svínslæri . . . . . . . | 2½ |
| 35—40 | kindarhausa . . . . . . . . . . . . | 4—7 — |
| 12 | nautshausa . . . . . . . . . . . . | 1½ |
| 120 | ný hænuegg . . . . . . . . . . . . | 40—50 |
| 12 | pd. af þurkuðum eplum | |
| 45 | — — nýjum eplum . . . . . . . . . | 8—10 — |
| 8—9 | — — ágætu hreinu smjöri . . . . . . | 3—4 — |
| 250—300 | — — kartöflum . . . . . . . . . . | 40 — |
| 3½ | — — munntóbaki . . . . . . . . . | 1 — |
| 3 | — — reyktóbaki . . . . . . . . . . | ½—1 pd. |
| 2½ | — — neftóbaki (skornu) . . . . . . . | 1½ — |
| 800—1000 | — — töðugæfu heyi . . . . . . . | 100—150 — |

duglega verkaskó fyrir doll. 1,00 o. s. frv.

Yfir höfuð að tala er skófatnaður og klæðafatnaður í Canada með svipuðu verði og á Íslandi, þegar miðað er við peninga. En verður að minnsta kosti ²/₃ pörtum ódýrari þar heldur en hjer á landi, þegar miðað er við vinnulaunin. En það er

einmitt sá eini sanni og rjetti mælikvarði fyrir dýrleik hlutanna, því peningar eru, eins og hver önnur vara, að eins sýnilegur ávöxtur af vinnu. Vinnan er undirstaða auðsins, og þess vegna er það rjett að miða dýrleika allra hluta einmitt við *vinnu* en *ekki* peninga.

Jeg þykist nú hafa sýnt yður, svo að ekki verði hrakið með rökum, að það er *að stórum mun ódýrara* að lifa í *Canada* heldur en hjer á landi, og þar með slegið rothögg þá kenningu, að það sje dýrt að lifa fyrir vestan haf.

Timbur, járn og blikkvara, ull og kol, allt þetta er að miklum mun *ódýrara í Canada* heldur en á Íslandi. Næst skulum við athuga þá kenningu föðurlandsvinanna, að það sje ógerningur að flytja til Canada vegna þess, að menn verði að leggja svo miklu meira líkamlegt erfiði á sig þar vestra, til þess að geta lifað, heldur en þeir gera hjer á landi, og sjá hvort hún stenzt próf.

Ef þjer athugið listann hjer að framan, um það hve mikið af hinum ýmsu vörutegundum, sem þar eru taldar, þjer getið fengið fyrir dagsverkið í Canada og á Íslandi, þá munuð þjer sjá, að þjer þurfið að vinna alla leið frá tvisvar sinnum til tíu sinnum lengur fyrir yðar lífsnauðsynjum hjer á landi heldur en þjer þurfið að gera vestur í Canada.

Fyrir hvert 1 dagsv., sem þjer vinnið í Canada, verðið þjer að vinna fyrir hinum ýmsu vörum, sem hjer eru taldar, á Íslandi, svo sem hjer segir:

| | | |
|---|---|---|
| Fyrir hveiti (= allskonar brauði) | 6 | daga |
| — haframjöli | 3 1/2 | — |
| — bankabyggi | 2 1/2 | — |
| — hrísgrjónum | 2 1/2 | — |
| — hvítsykri höggnu | 4 | — |
| — röspuðu hvítsykri | 4 | — |
| — púðursykri | 5 | — |
| — tei | 5 | — |
| — kaffi | 3 1/2 | — |
| — rúsínum hartnær | 3 | — |

| | | | |
|---|---|---|---|
| fyrir | nýjum eplum | $4^1/_2$—5 | daga |
| — | nýju nautakjöti að jafnaði | 2 | — |
| — | svínafleski | $7^1/_2$ | — |
| — | mjólk | 2—$3^1/_2$ | — |
| — | osti | 2 | — |
| — | sauðarhausum | 6 | — |
| — | nautshausum | 9 | — |
| — | hangnu svínslæri | 5 | — |
| — | eggjum | $2^1/_2$—3 | — |
| — | smjöri rúmlega | 2 | — |
| — | kartöflum | 7 | — |
| — | munntóbaki | $3^1/_2$ | — |
| — | reyktóbaki | 6 | — |
| — | neftóbaki | 2 | — |
| — | heyi | 8 | —; |

aðrar vörur verða í sömu hlutföllum.

Af þessu er það auðsætt, að menn verða að vinna hjer á Íslandi í rúmlega 4 daga, á móti hverjum einum degi, er menn þurfa að vinna vestra, fyrir sama vörumagni, og hjer af leiðir aptur það, að menn þurfa *ekki* að vinna eins mikið fyrir lífi sínu í Canada eins og á Íslandi, og eins hitt, að dollarinn í Canada er þar eins góður eða betri, en 4 kr. eru á Íslandi.

Þegar menn nú athuga það, að í Canada hafa menn á hverju ári miklu fleiri vinnandi daga — það er, segja, daga, sem menn geta fengið vinnu með fullu kaupi, — og þegar menn í öðru lagi athuga það, að vinna er svo miklu betur borgnð fyrir vestan haf heldur en hún er hjer á landi, og þegar menn í þriðja lagi athuga það, að margar af hinum almennu vörutegundum eru í raun rjettri mikið ódýrari í Canada heldur en hjer á landi, þegar miðað er við peninga, og þegar menn í fjórða lagi athuga það, að allur þorri af þeim vörum sem fluttar eru hingað til lands eru lakari að efni og gæðum, heldur en þær er kaupmenn voga að bjóða sínum viðskiptamönnum vestra — þegar, segi jeg, fólk athugar allt þetta, þá vona jeg að því fari að verða skiljanlegt hvernig fjölskyldufeðurnir íslenzku, sem eru vinnufærir og

vinnufúsir, fara að komast áfram og safna efnum fyrir vestan haf, þótt margir þeirra hafi átt við örðugan kost að búa meðan þeir dvöldu hjer á ættjörðinni.

Það segir sig sjálft, að fjölskyldumenn komast misjafnlega vel áfram vestra, að þeir eru misjafnlega fljótir að skapa sjer sjálfstæða og þægilega lífstöðu. Það fer auðvitað mjög eftir því, hve duglegir og ráðdeildarsamir þeir eru, og eptir því hve fjölskyldur þeirra eru stórar og þungbærar, og þó ekki minnst eptir því, hve húsmæðurnar eru hreinlátar, þrifnar og sparsamar.

Hafi þær ekki fyrir ungbörnum að sjá, þá geta þær opt fengið vinnu dag og dag í húsum þarlendra manna ýmist við fataþvott eða hreingjörningar, eða saumaskap o. fl. þ. h. Við slíka vinnu er kaupgjaldið vanalega 1 doll. um daginn, og fæði — 1 eða 2 máltíðir eptir því sem á stendur. Með þessu móti ljetta húsmæðurnar opt og tíðum stórlega mikið undir með mönnum sínum. Sjeu þar á móti börnin ung, svo að húsmóðirin geti ekki sinnt þeirri vinnu utan húss, sem hún annars ætti kost á að fá, þá hvílir auðvitað öll inntekta vonin á manninum einum. Börn 11 og 12 ára gömul geta jafnan fengið vinnu, einkum þó stúlkur; þær ganga út í vistir sem barnfóstrur, og til að ljetta undir með smáverk innanhúss, og hafa frá 10 til 20 kr. í kaup um mánuðinn. Drengir fá helzt vistir hjá bændum og eru notaðir til að snúast í kringum gripi og í þ .h. smávik. Kaup þeirra er vanalega um 20 kr. um mánuðinn. Börn sem eru 12 ára og þar yfir hjálpa foreldrum sínum ótrúlega mikið og mega í flestum tilfellum heita að vera nokkurnvegin sjálfstæð.

Húsaleiga er dýr, eptir ísl. reikningi vanalega um 30 til 40 kr. um mánuðinn fyrir hús af meðalstærð (með 6 til 8 herbergjum). En landar vorir nýkomnir, sem hafa alizt upp við nokkuð þrengri húsakynni, en almennt gerast vestra, slá sjer vanalega saman, svo að 2—3 fjölskyldur búa í sama húsi, og þannig verður húsaleigan þeim alls ekki tilfinnanleg byrði; samt gjöra fjölskyldufeður jafnan sitt ýtrasta til að festa sjer bæjarlóð, svo fljótt sem þeir sjá sjer fært að standast þann kostnað, sem fasteignakaup hafa í för með sjer. Þegar lóðin er fengin,

þá er auðgert að koma upp húsi á hana, og þótt þau sjeu sum lítil húsin hjá löndum okkar vestra, þá má ganga að því vísu, að þau stækka eptir því sem eigendunum vex fjármunalegur fiskur um hrygg.

Það liggur í augum uppi, að fjölskyldufeður, ef þeir hafa þunga ómegð, safna sjaldan nokkru fje svo að teljandi sje á fyrsta eða öðru ári eptir að þeir koma vestur, en engin efi er heldur á því, að þeir lifa almennt mikið betra lífi þar, en þeir gjörðu á meðan þeir dvöldu hjer á landi.

Fólk flytur sig vanalega hjeðan til þess að geta átt betri daga í hinum nýja heimi, og eptir því sem mjer er kunnugt, þá er engin efi á því að vonir þess bregðast ekki í því efni.

Ef Íslendingar í Canada vildu láta sjer nægja með sömu lífskröfur vestra sem þeir gera meðan þeir dvelja á Íslandi, þá er enginn efi á því, að þeir gætu orðið þar stórefnaðir menn innan fárra ára.

Hinn annar flokkur ísl. vesturfara, ógiptu karlmennirnir, koma sjer margir tiltölulega lakar áfram, heldur en ómagamennirnir. Þá skortir að mjer finnst bæði framtakssemi og útsjón; þeir eru gjarnir á að láta hverjum degi nægja sína þjáning, og fara opt allóþarflega með efni sín, enda taka stundum á sig náðir, þegar fjölskyldumennirnir verða að halda sjer við vinnu. Framsóknarfýsi þeirra og hyggindin — sem í hag koma — eru á mjög misjöfnu stigi, og afkoman verður að sama skapi.

Karlmenn, hvort heldur giptir eða ógiptir, geta optast haft vinnu á vetrum, því nóg er að gera í Vesturheimi. En einhleypingarnir, sem ekki hafa fyrir neinum nema sjálfum sjer að sjá, og enga þörf finna til að vinna úti í vetrarhörkunum, sóa þá iðulega tíma sínum til lítilla nota. Þeir treysta á það, sem þeir hafa innunnið sjer að sumrinu, til þess að geta átt náðuga daga að vetrinum.

Afleiðingin líkist orsökinni, eptir því sem minna er unnið, eptir því safnast minna í kornhlöður. En það er verðugt að geta þess hjer, að þeir sem jeg hef nú talað um, eru fremur undantekningar, og að einhleypingar jafnt sem fjölskyldufeður

mega eiga þann vitnisburð að vera yfir höfuð að tala duglegir og ráðdeildarsamir menn, og margir þeirra vinna sjer inn og eiga á vöxtum mikla peninga. Fæði (þarmeð reiknað húsnæði, rúm, hiti og ljós) og þjónusta fyrir ógipta menn kostar um doll. 3.00 eða rúmar 11 kr. um vikuna.

Gerum nú ráð fyrir, að einhleypur reglumaður vinni 7 mánuði á ári fyrir doll. 1.75 eða 6 kr. 50 au. á dag, það gerir í 180 daga 1,170 kr. Af þessu skal hann svo borga fæði sitt með húsnæði, rúmi, hita, ljósi og þjónustu, 3 doll. eða 11 kr. 25 aura um viku hverja; það gerir 585 kr., og á hann þá eptir aðrar 585 kr., sem hann getur lagt á vöxtu í banka, því jeg ætla hverjum vinnufærum manni að vinna fyrir fatnaði og vasapeningum sínum á þeim 5 mánuðum ársins, sem jeg kalla hlaupavinnutíma.

Í þessari áætlun hef jeg nú reyndar farið allt of vægt í sakirnar, því jeg veit að hver vinnusamur reglumaður getur haft miklu meiri árslaun en jeg hef hjer gert ráð fyrir. Jeg þekki vinnumenn, sem hafa lagt til síðu yfir 1200 kr. á ári vestra og þó lifað bezta lífi.

Það var í hittið fyrra, að jeg vistaði ísl. karlmann, þá nýkominn að heiman, út á land til bónda í ársvist fyrir doll. 100 og allt frítt að undanteknum fötum. En þegar jeg fann þennan mann um haustið, eptir að hann hafði verið 3 mánuði í vistum, þá álasaði hann mjer sterklega fyrir vistarráðin. Hann fann að vísu ekkert að vistinni, og hældi húsbændum sínum, en sagðist mundi hafa verið búinn að innvinna sjer doll. 100 á þessum 3 mánuðum, ef hann hefði ekki vistazt. Þjer megið því trúa því, að jeg muni ekki í annað sinn hlaupa að því að vista menn í ársvistir fyrir 400 kr.

Vinnumenn hjer á landi sem hafa frá 80 til 130 kr. í árskaup, en mega vinna öllum tímum, og hafa optlega bæði ljelegan og lítinn kost — þeir ættu sannarlega ekki að binda skóþvengi sína við föðurlandið, ef þeir hafa nokkur ráð til þess að komast vestur. Föðurlandið á því að eins heimtingu á vinnukröptum íbúa sinna, að það geti borgað hann að jöfnu við önnur lönd.

Hinn þriðji flokkur íslenzkra vesturfara, ógiptu stúlkurnar, komast máske tiltölulega langfljótast og bezt áfram af öllum ísl. í Canada. Það er kvennfólkseklá þar; og þess vegna mikil eptirsókn eptir því. Stúlkurnar ísl. eru þekktar að dugnaði og ráðvendni og kvennlegri háttprýði, og þær ganga opt fyrir annara landa stúlkum, þegar um vistarráð og kaupupphæð er að ræða. Að vísu eru þær ekki, að minnsta kosti fyrst eptir að þær koma vestur, svo mjög einkendar fyrir þrifnað, en þeim lærist hann þar undra fljótt. En þær eru alstaðar og æfinlega einkendar fyrir trúmennsku, og fyrir það hve fljótt og fallega þær læra þarlent mál, að minnsta kosti að tala það, og hve vel þær laga sig eptir þarlendum þjóðháttum.

Þetta hvortveggja eru atriði, sem Canadamenn meta mikilsvirði, og þetta hvortveggja er ísl. kvennfólki lægnara en mörgum annara landa stúlkum. Fyrsta skilyrðið fyrir, að komast vel áfram vestra er auðvitað það, að ná valdi á málinu, og kvennfólkið lærir það yfir höfuð bæði fljótar og betur en karlmenn.

Langflestar stúlkur kjósa fremur vistir inni í bæjum en úti á landsbygðinni. Í bæjum eru húsakynni jafnaðarlega miklu betri og verkin ljettari og hreinlegri. Stúlkur hafa þar langt um meiri frítíma í vistum en hjer þekkist, og það sem ekki er minnst í varið, þeim er borgað fyrir það sem þær vinna, borgað skilvíslega í peningum — allt í glærum peningum. — Kaupgjald kvenna er frá 30 til 60 kr. og yfir, um hvern mánuð.

Sjaldan fá nýkomnar stúlkur meira en 30 kr. um mánuðinn til að byrja með; þó vill það stundum til, að þeim er boðið hærra kaup. Jeg hef vistað nýkomnar stúlkur fyrir doll. 10 = 37 kr. 50 au. um mánuðinn, og jeg hef vistað stúlku með barni, sem hjer á landi var á sveit með 300 kr. meðgjöf, fyrir doll. 10 um mánuðinn og frítt fyrir barnið strax og hún kom vestur. Hún er nú gipt.

Eptir að þær hafa verið vestra í 2—3 mánuði, mega þær ganga að því vísu, að þær geta fengið vistir með doll. 10 til doll. 12 = 37 kr. 50 au. til 45 kr. mánaðarlegu kaupgjaldi, og opt mikið meira. Auk þessa er þeim opt gefinn fatnaður og

aðrir munir, sem að verðupphæð nemur margfallt meira en allt árskaup þeirra á meðan þær voru á Íslandi. Þeim er óhætt að trúa því ísl. stúlkunum, að í Canada er farið vel með þær í þess orðs fyllztu merkingu, og þeim er óhætt að reiða sig á það, að hver vinnandi stúlka, sem kemur vestur, getur átt víst að fá 400 til 600 kr. í kaup fyrir fyrsta árið og opt nokkuð meira.

Í bæjunum Calgary og Edmonton, til dæmis, geta liprar og duglegar stúlkur fengið vistir fyrir 800 til 1000 krónur um árið. Þær tvær stúlkur, sem komu upp til Íslands í haust eptir örfárra ára dvöl í bæjunum Winnipeg og Medicine Hat, geta borið mjer vitni um kaupgjald kvenna vestra; önnur hafði þar doll. 25 um hvern mánuð, sem er sama sem 1125 krónur á ári, hin hafði doll. 30 um mánuðinn eða 1350 krónur á ári. Setjum nú svo, að kvennmaður 20 ára að aldri fari í vist á Íslandi með 30 króna árlegu kaupi; sú stúlka er orðin hálfsextug kerling, búin að vinna í full 35 ár, þegar hún er búin að vinna fyrir sömu kaupupphæð, sem sú stúlka fær á einu einasta ári, sem hefur 30 doll. um mánuðinn. Það er hryllileg tilhugsun, að duglegar stúlkur hjer á landi skuli neyðast til að eyða hjer dögum sínum fyrir minna árskaupi heldur en þær gætu hæglega fengið fyrir 2—3 vikna vinnu, ef þeim væri mögulegt að komast til Canada.

Þessi sífelda ekla á kvennfólki í Canada orsakast aðallega af því, að svo margir af þeim sem vestur flytja, giptast innan fárra ára eptir að vestur er komið. Með giptingunni skilja þessar stúlkur ekki einasta autt það rúm, er þær sjálfar fylltu meðan þær voru vinnukonur, heldur mynda þær einnig annað pláss, sem þarf fyllingar þegar þær sjálfar gjörast húsmæður. Það er yfir höfuð að tala viðtekin regla, að ungar og efnilegar stúlkur ganga betur út í fínar vistir og fá hærra kaup en hinar sem eru eldri og bera þess merki, að hafa þolað hita og þunga dagsins hjer heima. En þótt hinar eldri gangi lakar út í fínar vistir, þá eru þær í rauninni engu lakar settar fyrir þá sök. Þær geta jafnan fengið næga atvinnu við klæðaþvott og hreingjörningar o. fl., og er þá vanalega borgað doll. 1 á dag með

fæði. Með þessu móti innvinna hinar eldri sjer jafnaðarlega einsmikla peninga eins og þær yngri og ásjálegri gjöra í fínum vistum.

Eg þekki konu um sextugt, sem vann sjer inn 100 doll. frá byrjun oktober til maí s. l. við klæðaþvottahús í Winnipegbæ. Það þætti dáindisgóð borgun hjer á landi fyrir aldrað kvennfólk, að fá nálega 400 krónur fyrir vetrarvinnu. Jeg þykist viss um, að enginn höfðingi á Íslandi sje nógu höfðinglyndur að bjóða eða borga vinnukonu sinni slíkt kaup, þó um heila ársvist væri að ræða.

Það er óhætt að fullyrða, að fyrir ungt og efnilegt kvennfólk, og yfirhöfuð að tala fyrir allt kvenfólk, þá er Canada eftir mínum skilningi sannarleg jarðnesk paradís.

Jeg hef nú lítillega drepið á það, hvernig Íslendingar fá atvinnu vestra, hvaða kaup þeir hafa og hve dýrt er að lifa þar, og jeg þykist hafa sýnt, að það er að stórum mun ljettbærara að komast áfram vestra, heldur en það er hjer á landi.

Þegar jeg er nú spurður að því, hvaða sannanir jeg hafi að færa fyrir því að Íslendingum í Canada líði betur, þrátt fyrir hátt kaup og ódýrari lífsnauðsynjar heldur en þeim leið meðan þeir dvöldu hjer á landi, þá svara jeg, „að verkin sýna merkin“, og skal jeg nú tilfæra nokkur atriði máli mínu til sönnunar.

Eitt af því marga, sem andmælendur vesturflutninga hafa á móti vesturförum er það, að menn verði heiðnir, það er tapi sinni barnatrú, þá er þeir koma vestur, og svo er þessi skoðun ríkjandi hjer á landi, að það hefur verið gert að blaðamáli að tiltækilegt mundi að safna fje á Íslandi til kristniboðs meðal Íslendinga í Vesturheimi. Hvernig ber nú þessari skoðun saman við það sem Ísl. þar vestra eru að vinna í trúmálum?

„Lögberg“, eitt af íslenzku blöðunum í Winnipeg, flytur 30. marz 1892 grein um ástand ísl. lúterska safnaðarins þar, og er þar skýrt frá að sá söfnuður hafi á árinu 1891 lagt fram til þarfa safnaðarins af fríum og frjálsum samskotum doll. 2290.10 = 8500 krónur. Blaðið segir ennfremur: „Vitaskuld er þetta blómlega ástand safnaðarins fyrst og fremst þýðingarmikið frá

kirkjulegu sjónarmiði. Það sannar það áþreifanlega, svo að ekki verður á móti mælt, hvort sem mönnum líkar það betur eða ver, að kirkjan er að ná hjer föstum fótum meðal fólks vors. Mönnum stendur ekki á sama um það málefni, sem getur knúið menn eins og Winnipeg-Íslendinga, sem allir þurfa að vinna allhart fyrir sínu daglega brauði, til að leggja fram yfir doll. 2000 á ári. Slík framlög af frjálsum vilja greidd af fólki, eins og því sem hjer er um að ræða, til fyrirtækis, sem ekki hefir neinn fjármunalegan hagnað í för með sjer, eru að öllum líkindum gersamlega dæmalaus meðal þjóðar vorrar.

Vilji menn renna augunum svo sem 5—6 ár aptur í tímann, þá sjá menn hvílík breyting hjer er á orðin. Þá hafði söfnuðurinn enga kirkjuskuld að dragast með, heldur vóru samkomur hans haldnar í smáhúsi, sem fáeinir dollarar áttu að borgast eptir á mánuði. Hann gat ekki staðið í skilum með þá leigu — ekkert líkt því. Og á fjórum árum safnaðist skuld við prestinn, sem nam allt að doll. 800. Það hafa víst fáir gert sjer í hugarlund á þeim árum, að þessi söfnuður mundi innan svo skamms tíma leggja fram á einu ári meira en doll. 2000.

En það er ekki að eins frá kirkjulegu sjónarmiði, að hjer er um athugavert og þýðingarmikið atriði að ræða. Því að þetta er jafnframt ómótmælanleg sönnun fyrir því, að fjelagsskaparandi Íslendinga hjer er stórkostlega að færast í vöxt. Þeir eru augsýnilega farnir að læra það, að leggja nokkuð á sig, þegar um það mál er að ræða, sem þeim í sannleika er annt um.

Og að síðustu leynir það sjer ekki, að efnahagur Íslendinga hjer hlýtur að vera í mjög viðunanlegu horfi. Væri ekki svo, þá hefðu þeir ekki *getað* lagt fram annað eins fje til fyrirtækis, sem ekki ber þeim neinn fjármunalegan arð“.

Hjer er þá sönnun fyrir því, að Íslendingar í Winnipegbæ eru á góðu framfara skeiði í efnalegu tilliti. Jeg er sannfærður um, að þessar 8.500 krónur, sem menn þar lögðu til safnaðarþarfa á árinu 1891, vóru peningar, sem þeir máttu vel missa frá heimilisþörfum sínum. Það verður ekki sýnt, að fólk hafi haft nokkuð minna eða lakara viðurværi í mat eða öðrum aðbúnaði,

þótt það legði fram þessa peninga, sem, eins og blaðið segir, mun vera dæmalaust í sögu Íslands að nokkur söfnuður hjer á landi hafi getað sparað til safnaðarþarfa á nokkru einu ári. Þetta er þá eitt af því marga, sem færa má til sönnunar því, að Ísl. í Canada líði í fjármunalegu tilliti margfalt betur en fólki líður hjer.

Annað atriði sem færa má til að sýna, að líðan Ísl. vestra sje ekki eins ill eins og hatursmenn Ameríkuferða vilja koma fólki til að trúa, er sú afarmikla lífsábyrgðarupphæð, sem Ísl. í Canada bera, og sem árlega fer stórkostlega í vöxt. Um þetta er sagt svo í Lögbergi:

„Ýmsar tilraunir hafa verið gerðar til þess að koma mönnum í skilning um það, hvort Vestur-Íslendingum muni líða vel eða illa í efnalegu tilliti. Og tilraunirnar hafa vitanlega verið eptir því, hverjum augum þeir, sem þær hafa gert, hafa sjálfir litið á málið. B. L. Baldwinson setur málið fram frá sinni hlið, og Gísli karlinn í Svínárnesi setur það fram frá sinni. Oss hefur dottið í hug ný hlið á málinu, og sú hlið er *lífsábyrgð Vestur-Íslendinga.*

Það má vafalaust allmikið af henni marka. Þegar það fer að verða tízka hjá einhverjum flokki manna að tryggja líf sitt, þá má reiða sig á það, að sá flokkur lifir ekki við sult og seyru. Vitaskuld ríður mest á því fyrir fátæklingana að tryggja líf sitt. En það þarf dálitlar tekjur til að geta klofið það. Og svo er því einu sinni svo varið, að fæstir eru nógu forsjálir til að leggja á sig þá byrði, ef þeim finnst í raun og veru mikið til um hana.

Vjer höfum leitað upplýsinga hjá því fjelagi hjer í bænum, sem mest hefir gert að því að taka líf Íslendinga í ábyrgð, og hefir einn af agentum þess gefið oss svolátandi skýrslu um lífsábyrgð Íslendinga þar. — —

Þessi lífsábyrgð, sem hjer er frá skýrt, nemur doll. 298,000. Og þó eru ekki öll kurl komin til grafar hjá þessu fjelagi. Ný-Íslendingar munu hafa í því lífsábyrgð, sem nemur hjer um bil doll. 30,000 og Selkirk-menn um doll. 16.000, auk þess sem

getið er um í skýrslunni. Þessar síðustu upphæðir höfum vjer ekki getað fengið alveg nákvæmar, nje sundurliðaðar.

Svo er auðvitað þess að gæta, að Vestur-Íslendingar hafa lífsábyrgð í fleiri fjelögum. Nokkrir þeirra hafa tryggt líf sitt í hinum og öðrum reglulegum lífsábyrgðarfjelögum, og allmargir standa í styrktarfjelögum, sem lífsábyrgð er samfara“.

Lífsábyrgð Íslendinga í Canada er nú orðin eptir síðustu skýrslum um það efni, um 2,000,000 krónur[1], og er mest af þessari upphæð borið af þeim Ísl. sem búa í bæjum. Ísl. í Winnipegbæ einum bera stærri lífsábyrgðarupphæð, heldur en allir íbúar þessa lands, þótt þeir sjeu 23. sinnum fleiri að tölunni. Þegar menn nú gæta þess, að lífsábyrgð er eitt af því, sem ekki gefur neinn fjármunalegan arð sjálfum gjaldendum, og þegar menn gæta þess, að Ísl. í Canada kasta út í árleg iðgjöld um 150,000 krónum, þá vona jeg að það verði skiljanlegt hverjum, ekki einungis að þeir viðurkenni nauðsynina á því, að búa í haginn fyrir afkomendur sína, heldur miklu fremur hitt, að þeir hafi efni á því.

Menn sem binda sig þeirri byrði, að leggja árlega fram annað eins fje eins og jeg hef hjer minnzt á, hljóta að hafa sterka trú á framtíð sinni; þeir hljóta að vera sannfærðir um það, að hversu illa sem kynni að ára, þá geti þó aldrei árað svo illa, að þeir verði ekki æfinlega færir um að leggja fram þessa upphæð fram yfir allt annað, sem þeir kunna að verða að svara, og að þeir geti borið þessa miklu upphæð, sannar að þeim líður vel; eða geta menn ekki játað með mjer, að þetta beri vott um efnalegan þrifnað Vestur-Íslendinga — svo mikinn efnalegan þrifnað, að ekkert hjer á landi getur við það jafnazt.

En má tilfæra eitt atriði til að sanna efnalega framför Ísl. í bæjum í Canada; það eru fasteignir þeirra.

Jón Ólafsson, fyrrum alþingismaður, nú ritstjóri í Winnipeg,

1) Eptir að þessi fyrirlestur var fluttur, hefi jeg fengið áreiðanlegar fregnir um. að Íslendingar í Canada hafa aukið lífsábyrgð sína um nálega 750,000 kr.

safnaði skýrslu yfir fasteignir Ísl. í þeim bæ á haustinu 1891, og segir hann svo í blaði sínu „Öldinni“:

„Það hefur verið safnað skýrslum um efnahag og ástand íslenzkra bænda í nýlendum hjer í Canada. Úr Dakota höfum vjer ekki sjeð neinar slíkar skýrslur, og væri það þó fróðlegt, því fremur sem vjer ætlum að löndum vorum þar líði yfir höfuð fremur vel, og mörgum prýðisvel.

Um efnahag Íslendinga hjer í bænum er örðugra að segja, enda höfum vjer aldrei sjeð ísl. blöðin hjer flytja neitt um það efni. Það eru líka svo miklir örðugleikar á því, að lítt kleyft er að ná einu sinni nokkru manntali á Íslendingum í Winnipeg; ekki einu sinni hið almenna manntal getur þess, hve margt hjer sje af hverjum þjóðflokki. Og ef lítt kleyft er að ná nokkurn veginn manntali, þá er auðsætt, að alveg ókleyft er að fá nokkurt almennt, áreiðanlegt yfirlit yfir kjör landa hjer og efnahag.

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

Að efnahagur landa vorra hjer í bænum sje almennt ekki eins óvænlegur og almennt er álitið, þykir oss mega ráða af því, hve margir þeirra eiga hjer fasteign. Vjer teljum víst, að þegar skýrslur vorar verða búnar að ná yfir Point Douglas og Fort Rouge, og yfir þá sem eiga að eins annaðhvort hús eða lóð, þá sýni það sig, að það sje yfir 100 Íslendingar hjer, sem eiga fasteignir. Og þegar þess er nú gætt, hve mikill hluti af tölu landa hjer í bæ eru vinnukonur og aðrar einhleypar konur (sem sumar hverjar eðlilega leggja heldur fje í gull og silki heldur en í fasteign) og einhleypir karlmenn (sem eðlilega eru yfir höfuð ekki eins samhaldssamir eins og fjölskyldumennirnir), þá verðum vjer að játa, að það er hrein furða, hve margir landar hjer eiga fasteign. Vitaskuld eru flestar þessar fasteignir smáar; en það er sama, þær eru ávallt vottur um efnalegan þrifnað og gott ráðlag. Fjölskyldumenn eru hjer tiltölulega miklu færri en einhleypt fólk, og fjölskyldumenn eiga eðlilega minna af að sjá til að spara. En náttúrunnar gangur er nú samt einhvern veginn svo, að það eru þeir fremur en einhleypa fólkið, sem spara. Það hefir ekki nema fyrir sjálfu sjer að sjá, og finnur því minni

brýna hvöt hjá sjer til að bera áhyggju fyrir morgundeginum, og meiri lyst til að njóta lífsins“.

Jón greindi ekki frá hve mikis virði þessar 100 fasteignir kynnu að vera, en jeg veit fyrir víst, að margar þeirra voru mikils virði, og að þær allar sameiginlega hafa verið stórmikilsvirði. En við þessar 100 fasteignir má bæta því, að eptir skýrslum í Winnipeg-blöðunum ensku, þá keyptu og byggðu Ísl. í þeim bæ fasteignir uppá 300,000 kr. á s.l. ári 1892.

Þessar 300,000 krónur mundu nægja til þess að kaupa upp allar húseignir Akureyrar og Oddeyrar kaupstaðar, með því landi er þeir standa á. Að þetta skuli vera framfara „record“ Íslendinga í Winnipeg á einu einasta ári, er eins ótrúlegt eins og það er satt.

Það hefir verið ætlað á að fasteignir Ísl. í Winnipeg sjeu nú alls um 600,000 króna virði, og skuldir á þeim rjett við 100,000 krónur. Svo að skuldlaus eign þeirra nemi nú **hálfri milljón króna**, og er þó ótalið allt það fje, sem einhleypt fólk, bæði karlar og konur, eiga þar í bönkum.

Það veit að vísu enginn hve mikið það fje kann að vera, en allar líkur eru til þess að það sje stórmikil upphæð, og mjer þykir mjög sennilegt að væru allir þeir peningar lagðir saman við fasteigna upphæðina, þá mundi aðalsumman ekki verða stórt undir 750,000 krónum.

Þetta finnst mjer vera vottur þess að landar vorir vestra sjeu allvel staddir í fjármunalegu tilliti, og þegar þess er gætt, að þetta samsafn af auðæfum er ávöxtur 12—14 ára erviðis Ísl. þar, þá vona jeg að fólki fari að verða skiljanlegt, hvernig vinnan er borguð vestra, á móts við það sem gerist hjer á landi. Þjer hafið eflaust tekið eptir því að jeg hef en þá talað mest um þá Ísl. sem hafa aðsetur í Winnipeg-bæ, og þar til liggja tvær ástæður:

1. að jeg er þar gagnkunnugastur högum manna og

2. að þar eru flestir Ísl. samankomnir, og þessvegna er það eðlilegast og rjettast, að leggja líðan þeirra til grundvallar, þegar um bæjalíf Ísl. í Canada er að ræða.

Um þá af löndum vorum sem búa í bæjunum Rat-Portage, Keewatin, Austur- og Vestur-Selkirk, Carberry, Brandon, Calgary og Victoria get jeg sagt, að eptir því sem mjer er kunnugast, þá er efnahagur manna þar fullt svo góður sem þeirra er búa í Winnipeg, og enda máske nokkuð betri sumstaðar, svo sem í Brandon og Victoria.

Margir Ísl. í þessum bæjum eiga sínar eigin grunnlóðir og hús; sum þeirra eru að vísu lítil og lítilsvirði, en mörg eru líka stór og vönduð hús. Allt er betra en vera leiguliði, og eins og áður var sagt, þá leggja landar vorir kapp á að eignast sín eigin heimkynni og þar með spara í sinn eiginn vasa það sem þeir annars yrðu að borga í leigu til annara.

Í Winnipeg og öðrum bæjum þar sem fólk vort er saman komið, en einkanlega í Winnipeg þar sem flestir þeirra eru, eru margir handverksmenn af ýmsum handiðnum, þar eru timburmenn, snikkarar, skóarar, skraddarar, blikksmiðir, járnsmiðir, gull- og úrsmiðir, steinhöggvarar, múrarar, bókbindarar o. fl., þessir menn hafa jafnan talsvert hærra kaup en algengir verkamenn, um 2—3 dollars á dag, að undanteknum bókbindurum, sem jafnan hafa lágt kaup, og mega enda ekki búast við að fá atvinnu við sína handiðn þótt þeir flytji vestur.

Þar eru einnig ísl. kaupmenn, sem verzla með allskonar vörur, og eru sumir þeirra vel efnaðir menn. Í götu þeirri er jeg bý í þar í Winnipeg eru 9—10 ísl. verzlanir og þrífast allar vel.

Ísl. í bæjum vestra hafa þann góða eiginlegleika, að skipta sem mest hverir við aðra, og þannig uppbyggja hverir aðra; þetta er eitt af því marga sem miðar til þess að auðga þjóðflokk vorn vestan hafs, þar sem hávaðinn af verzlunarágóðanum rennur í vasa Ísl., en dreifist ekki út meðal þarlendra manna. Fjelagslíf Ísl. þar vestra er fjörugt í bezta máta, eins og sjá má af blöðunum „Lögbergi“ og „Heimskringlu“, sem hvort um sig koma út tvisvar í viku, og sameiginlega eru þau stærri en öll þau blöð sem gefin eru út hjer á landi. Vestanblöðin eru frjettafróð og vel rituð, svo að ekkert hjerlent blað tekur þeim

fram að því leyti, en ákaflega eru þau skömmótt, þegar því er að skipta, hvort sem þau ræða um politiska eða aðra andstæðinga. Þar er nefnilega prentfrelsi, sem er óþekkt hjer á landi. Ísl. hjer heima, sem ekki eru vanir miklum blaðalegum gauragangi, kunna hálfilla við ofsahitann í vestan-blöðunum. En við sem orðnir erum þar hagvanir, finnum minna til þessa, af því að við vitum að þetta er eitt af þeim mörgu atriðum, sem ber vott um fjörugt fjelagslíf og sterkan áhuga fyrir almennum og öðrum málum.

Hinir almennu barnaskólar eru alstaðar í bæjum vestra og margir í sumum bæjum; þeir veita fría kennslu öllum börnum frá 5 til 16 ára, og kennsla fer fram frá kl. 9 f. h. til kl. 4 e. h. alla daga vikunnar, nema laugar- og sunnudaga, undir vel lærðum og prófgengnum kennurum. Ísl. gera sjer góð not af skólunum, og börn þeirra eru þar einkend fyrir skarpa námsgáfu; þeim gengur að jafnaði fullt svo vel sem hinum beztu á meðal innfæddra barna af þarlendum eða öðrum þjóðflokkum. Landar vorir eru farnir að skilja hve afar nauðsynlegt það er fyrir framtíð barna sinna, því svo að eins geta þeir búizt við að börnin þeirra geti staðið öðrum jafnfætis, er þau komast á fullorðins árin, að þau njóti sömu menntunar í ungdæminu og börn þarlendra manna fá. Til þess eru Ísl. fluttir vestur, að þeir ætla ekki sjer eða börnum sínum að verða eptirbátar annara manna þar í landi í neinu því, er miðað getur til sannra þjóðþrifa, og þeir eru það heldur ekki.

Spítalar fyrir sjúka eru víðast í bæjum vestra, sem nokkrum þroska hafa náð. Aðalspítali Manitobafylkis er Winnipeg, þannig fá allir frían aðgang sem ekki hafa efni til að borga fyrir sig, og enda þótt þeir hafi efni. Læknishjálp og önnur aðhjúkran er sú bezta sem hægt er að veita, sem sjá má af því, að daglegur kostnaður við hvern sjúkling á spítalanum í Winnipeg er að jatnaði doll. 1,23 eða hátt á 5tu krónu.

Spítölum er haldið uppi af árlegum tillögum frá ríkis- og fylkisstjórnum, frá sýslu- og sveitafjelögum og af gjöfum frá öllum kirkjufjelögum eða söfnuðum, og frá fjelögum prívatmanna

og síðast at gjöfum prívatmanna. Þessar sjúkrastofnanir hafa orðið mörgum Ísl. til stórmikilla nota, enda hafa landar vorir vestra viðurkennt þetta og sýnt, að þeir kunna að meta það, með því að gefa árlega — í nafni allra Íslendinga — allstóra peningaupphæð til þeirra.

Skattar af fasteignum og lausafje eru ekki tilfinnanlegir. Í lausafje geta menn átt doll. 1000 eða 4000 króna virði skattfritt. Skattar af fasteignum í bæjum eru ætíð innanvið 2% af 100 hverju, en miklu minni út á landsbyggðinni. Sköttum er varið til skólanna, til vegabóta og annara umbóta, til að leiða vatn og ljós um bæina o. s. frv. Fátækraútsvör þekkjast ekki í Canada, því þar eru menn sjálfstæðir. Það er nokkuð öðru vísi í höfuðborg Íslands — Reykjavík, — þar ganga fullir 40% allra bæjargjalda til hreppsómaga. Það gengur þar eins og í sumum öðrum borgum norðurálfunnar, að ýmsir safna mörvömbum meðan aðrir svelta.

Ísl. hafa á síðustu árum fengið á sig almennt álit meðal þarlendra manna fyrir að vera einhver hinn bezti þjóðflokkur sem flytur til Canada. Þeir eru viðurkenndir að vera hraustir, þolnir og ástundunarsamir vinnumenn, hæglátir, löghlýðnir, reglusamir og ráðvandir. Þeir læra málið að jafnaði fullt eins fljótt og aðrir þjóðflokkar sem vestur flytja, laga sig vel eptir lifnaðar- og fjelagsháttum þjóðarinnar, og gerast smátt og smátt óaðskiljanlegur hluti af hinni canadisku heild. Enskir og aðrir menntamenn, sem hafa ferðazt um Canada, hafa allir í ræðum og riti lokið sama lofsorði á Ísl. þar, og allir eindregið viðurkennt, að vor þjóðflokkur muni eiga þar mikla og glæsilega framtíð fyrir höndum. Ísl. hefir verið minnzt á ríkisþinginu í Canada og fylkisþinginu í Manitoba sem þess bezta þjóðflokks er flytur til Canada. Sömuleiðis hefir það verið sannað á ríkisþingi Breta í Lundúnum fyrir 2 árum, að Íslendingar komast betur áfram vestra, heldur en skozkir húsmenn (crofters), sem fluttust vestur á sama tíma, hafa gert.

Í sambandi við þetta leyfi jeg mjer að lesa upp stutta grein úr „Lögbergi“ 6. apríl 1892:

„Eptir 20 ár“, sagði maður nokkur í gærdag, „verða Íslendingar mestu auðmennirnir í Winnipeg. Þeirrar þjóðar menn, sem fyrir fáum árum voru styrktir til að komast til Manitoba, eru nú að kaupa lóðir til að byggja hús á. Það eru Íslendingar, sem kaupa nálega allar þær lóðir, sem nú eru seldar í þeim pörtum bæjarins, sem íbúðarhús eru reist á. Þó að tiltölulega beri lítið sem stendur á þessu ötula og einkennilega fólki, þá verður það eftir fá ár komið í tölu helztu mannanna, alveg eins og Skandinavarnir eru leiðtogar í viðskiptalífinu, pólitík og listum í Minneapoles og St. Paul og öðrum hlutum Norðvesturlandsins í Bandaríkjunum“. — Manitoba Free Press, 20. febr. 1892.

„Íslendinga var minnst í fylkisþinginu hjer um daginn. Mr. H. C. Graham, þingmaður frá Suður-Brandon, kvað óþarfa að ljúka lofsorði á innflytjendur frá austurhluta Canada. En hann vildi sjerstaklega minnast á þjóðflokk, sem ekki hefði neinn fulltrúa á þingi, en myndi innan skamms eiga rjett á einu eða tveim sætum á þinginu, Íslendingana, sem væru ástundunarsamt, friðsamt og löghlýðið fólk. Vitaskuld kæmu þeir ekki með mikla peninga, en þeir hefðu lagað sig eptir lifnaðarháttum þessa lands, og þeir sem ekki byggju góðu búi, hefðu náð sjer í heiðarlega atvinnu í öðrum lífsstöðum. Hann vildi benda stjórninni á það, í sambandi við tilraunir hennar til að ná útlendingum inn í fylkið, að ráðlegt mundi vera að setja einn eða tvo agenta á Íslandi, og styrkja Íslendinga til að komast hingað vestur, ef þeir gætu það ekki af eigin ramleik. Á Íslandi ynnu erviðismenn sjer hjer um bil það sama inn á heilu ári, eins og þeir gætu unnið hjer inn á einum til tveim mánuðum $40; og á Íslandi fengi kvenfólk sjaldan meira en $15 í kaup um árið. Hjer gæti það unnið sjer þá upphæð inn á tveim vikum eða skemmri tíma.

Blaðið „Tribune“ bætir því við, að hver einasti borgari, sem nokkuð hefði átt saman við Íslendinga að sælda, segi sömu söguna:

„Þeir eru reglusamir, heiðarlegir og ástundunarsamir menn,

og þeir sem nú eru hjer í fylkinu eru sómi fyrir hvert land sem er“.

Það sem jeg hef sagt hjer í kveld, er ekki og á ekki að vera lýsing á efnahag einstakra Ísl. í bæjum vestra; sú lýsing getur alls ekki fengizt eins og jeg hef skýrt frá. En jeg þykist hafa leitt rök, sannfærandi og ómótmælanleg rök að því, að löndum vorum í Canada líði almennt miklu betur en nokkur líkindi, og jeg vil segja nokkrir mögulegleikar eru til að þeim hefði getað liðið, ef þeir hefðu setið kyrrir á Íslandi.

Sem eitt og síðasta dæmi upp á það, hve vel efnahagur landa vorra stendur vestra, skal jeg geta þess, að á árinu 1887, þegar þeim barst neyðaróp frá ættjörðinni og þeir vissu að hjer var mjög þröngt í búi hjá mörgum og fólk fann sig hungurs vegna neytt til að flytja hjeðan og vildi komast vestur, þá sendu þeir til Íslands milli 20,000 og 30,000 krónur til ættingja sinna og vina. Við verðum nú að ætla að þessar rúmar 20,000 kr. hafi verið fje, sem fólkið mátti vel missa frá heimilisþörfum sínum og sem ekki sýnist að hafa gert þeim neitt fjármunalegt tjón, Að þetta sje rjett skoðað getið þjer bezt sjeð, þegar jeg minni yður á, að einmitt á þessu sama ári byggðu ísl. í Winnipeg sjer kirkju, sem með lóðinni er hún stendur á kostaði rúmar 20,000 kr. og borguðu þeir meiri partinn af þeirri upphæð á þessu sama ári.

Að menn hjer heima hafi vitað um efnahag okkar þar vestra og trúað því almennt að hann væri sæmilega góður, þykist jeg mega ráða af því, að hinir ýmsu sveitarstjórnir hjer á landi sendu oss mjer vitanlega nokkuð *á fjórða hundrað* hreppsómaga vestur á þessu sama ári (1887). Þeir hjer heima, sem búnir voru að búa nokkuð á *annað þúsund ára*, fundu sig ekki færa til að rísa undir ómegð landsins. Þeir sendu oss glæpamenn, drykkjurúta, letingja og vitskerta menn, og allskonar líkamlega og andlega vanskapninga, og þennan vinarskenk frá fósturjörðinni ætluðust sveitarnefndirnar hjer til að vjer tækjum upp á vora arma og sæjum um, þótt þeir vissu að við vorum þá ekki búnir að vera þar lengur en 12 eða 13 ár.

Það ræður nú að líkum, að við frumbýlingarnir þar vestra mundum örmagnast undir byrði þessari engu síður en þeir hjer heima, sem þá voru að minnsta kosti 30 sinnum fleiri að tölu heldur en við í Winnipeg, sem fólkið var sent til, og *þúsund árum eldri* í búskapnum. En hvernig fór? Við tókum við fólkinu eins og sannir mannvinir, rjettum því öfluga hjálparhönd og komum því á framfæri, og flest af þessum vesalingum varð sjálfbjarga fólk þá strax og allt af því (með máske 2 undantekningum) varð sjálfstætt innan 12 mánaða eptir að það kom vestur, þótt það hefði verið þyngstu ómagar hjer. Það hefur einatt gengið svo, að þegar í öll skjól var fokið hjer heima, þá hefir þó síðasta athvarf fólksins verið að fara til Canada, og það gleður mig að geta sagt, að fyrir guðs náð og aðstoð okkar Íslendinga þar vestra, þá er nú flest, og jeg held mjer sje óhætt að segja allt það fólk, sem hjeðan hefir verið sent af sveitunum, og á annan hátt, komið þar í sjálfstæða og heiðarlega lífsstöðu og margt af því er nú við góð efni. Sumt af þessu fólki hefir mjer vitanlega sent heim stórar summur af peningum árlega, til þess að hjálpa vinum og ættingjum til að komast vestur.

Nýja Ísland hefir nú almennt ekki verið í miklu áliti hjá fólki hjer heima sem góð nýlenda. En þó tóku Ný-Ísl. við hávaðanum af Gamla Íslands ómegðinni, sem send var vestur 1887. Í Víðiness byggð sem er syðsta byggðin í Nýja-Íslandi voru þá 30 eða tæpar 30 familíur. Í þá byggð eina föru rúmar 30 allslausar fjölskyldur sem að heiman komu. Sama má og segja um Mikley, að þangað voru þá sendar eins margar familíur og áður voru fyrir á eynni. Jeg ætla nú að leyfa mjer að staðhæfa, að það sje engin sveit til hjer á landi sem mundi rísa undir annari eins ómegð eins og þessar sveitir í Nýja-Ísl. tóku á móti á árinu 1887. Ef þetta sannar nokkuð, þá sannar það það, að Nýja-Ísl., sem þó er álitin mögur sveit, sje óviðjafnanlega miklu betra en gamla Ísland.

Jeg hef nú rifjað upp fyrir yður það sem jeg álít að vera sannfærandi rök fyrir því að Ísl. í bæjunum vestra líði vel,

líði mikið betur en menn geta búizt við að þeim hefði liðið ef þeir hefðu verið kyrrir á Íslandi. Jeg hef sýnt fram á, að landar vorir vestan hafs verða aldrei gjaldþrota þegar um þau málefni er að ræða, sem þeir bera fyrir brjóstinu. Fasteignir þeirra, lífsábyrgð þeirra, bankafje þeirra, söfnuðir þeirra og sendingar þeirra til vina og ættingja þeirra hjer á landi, og ekki minnst styrkur sá, beinn og óbeinn, sem þeir leggja fátækum landsbræðrum sínum sem árlega koma að heiman — og að endingu uppeldi þeirra á sveitarómögum, sem árlega eru sendir hjeðan, og hlaðið á þá vestra: — allt þetta finnst mjer nú benda til þess að Ísl. í Canada standi sig betur í efnalegu tilliti en fólk gerir hjer á landi, og síðasta atriðið, sem jeg benti á, sannar að sveitarstjórnirnar íslenzku skoða málið eins og jeg gjöri.

En hvernig er það svo hjer á landi með efnahaginn? Nú þegar 70,000 manna eiga kost á að senda á heimsýninguna í Chicago einn af Íslands gáfuðustu, menntuðustu og mikilhæfustu sonum til þess að „representera“ þar frammi fyrir öllum heimi þessa lands fornaldar-bókmentalegu frægð, þá bólar ekkert á frjálsum samskotum, þá er eins og þjóðin hafi ekki ráð á að hafa saman einar 3,000 kr.

Nei, — mínir háttvirtu tilheyrendur — Ísl. í Canada, hvort heldur þeir eru úti á löndum eða inni í bæjum, eru svo óviðjafnanlega mikið betur staddir í efnalegu tilliti, heldur en fólk er hjer á landi, að það er þýðingarlaust að reyna að gera nokkurn samanburð á því.

Þetta veit þjóðin, og þessvegna eru þeir svo margir sem langar til að komast til Canada, og jeg efast ekki um, að þeir koma þangað svo fljótt sem efni og aðrar kringumstæður leyfa það.

Það eru að vísu til 2 flokkar manna á Íslandi, sem ekki er vel við að fólk flytji úr landi; jeg þarf ekki að segja hverjir þeir eru, því allir vita það. Þeir eru — ef mjer má leyfast að tala í líkingum — eins og hygginn fjárbóndi; hann vill ekki missa sína sauði í ullu. Vill að þeir sjeu vel rúnir áður en þeim sje sleppt á afrjettina.

Yður mun nú finnast, að nóg hafi verið talað um kostina í Canada, þó jeg í sannleika hafi eiginlega ekki minnst á þá í kveld. En nú skulum við athuga ókostina.

1. *Hiti* og *kuldi*. — Hvortveggja þetta höfum vjer fyrir vestan haf. En ekki eins gífurlegt og sumir álíta það vera. Jeg er nú búinn að vera ytra í nærfelt 20 ár, og jeg er sannarlega eins ófrosinn af vetrarhörkum, og eins óbráðinn af sumarhitunum eins og þjer sem ekki hafið stigið þangað fæti. Sama er að segja um alla þá sem koma hingað til lands frá Canada til að sækja ættingja og vini og flytja þá út með sjer við fyrsta gefið tækifæri; þeir skoða ekki loftslagið í Canada neina frágangssök. Það eru að vísu satt, að það koma fyrir dagar á sumrin, þegar hitarnir eru nokkuð þvingandi fyrir þá sem þurfa að vinna úti í þeim, og þeim finnst mest til um þetta sem nýkomnir eru að heiman, en þessir hitadagar koma aðeins sjaldan fyrir á sumri. Sama er í rauninni að segja um kuldana. Það eru auðvitað mjög skörp frost með köflum á vetrum, því neitar enginn maður, en hinar sífeldu stillingar gera það að verkum, að menn þola kuldann fullt eins vel eða máske betur þar en fólk hjer þolir kuldana með byljum og næðingum hjer á landi. Þetta er vitnisburður allra þeirra er hafa reynt hvortveggja og nokkurt vit hafa á að dæma um það.

2. *Indíanar*, sem margir eru svo hræddir við, eru ekkert óttalegir. Jeg hef haft heilan hóp af þeim í vinnu heilt sumar og komst vel af við þá. Þeir sem hjeðan flytja til Canada þurfa ekki að óttast að lenda í klónum á Indíanum. Það hefir ekki komið fyrir neitt af voru fólki ennþá.

3. *Eldingar og fellibyljir*. — Þetta hefir hvorki brennt nje fellt neitt af Ísl., svo jeg til viti, og ekkert tjón hafa landar vorir beðið við þetta, síðan þeir fluttu vestur. Þegar menn hræða yður á fellibyljum, þá gætið þess, að þeir eru ekki í Canada, og því til sönnunar skal jeg geta þess, sem fólki mun annars vera kunnugt af brjefum og blöðum að vestan, að í Canada er það ekki siður bænda að þekja heyin sín. Þeir slá hey sín ýmist með vjelum eða með orfi og ljá, og hlaða þeim svo upp í

stóra galta, hvar sem vera vill úti á víðavangi, en þeir þekja þau aldrei og þó fjúka þau aldrei. Jeg held nú að það sje ekki mjög óttalegur fellibylur, sem ekki orkar að feykja einu heystrái. Hvað haldið þjer um það?

4. *Flugur og veggjalýs.* — Flugurnar eru stór ókostur, þar sem þær eru miklar, en þó ekki eins óttalegar eins og margt fólk gerir sjer hugmynd um að þær sjeu. Þær eru heldur ekki nema á vissum stöðum í landinu, einkanlega við vötn og í mýrlendi og sumstaðar í skógum. Almennt eru þær ekki á sljettunum. Þó að nú þessar flugur sjeu ókostur, þá sannar það ekki að þær banni fólki björg. Lýtið þjer á Mývatn, þar sem flugurnar eru svo miklar að eigi sjest sól fyrir þeim stundum á sumrin, og segið mjer svo ef þjer getið, hvar á landinu menn hafa almennt búið betur eða verið ásáttari með lífskjör sín heldur enn einmitt þar, sem flugurnar eru mestar. Með þessu er jeg ekki að mæla flugunum neina bót. En jeg held því fram, að þær sjeu ekki svo stór ókostur að fólk þurfi að fráfælast Canada þeirra vegna. með því líka að menn þurfa ekki endilega að setja sig þar að sem flugurnar eru mestar. — En um veggjalýsnar hef jeg aðeins það að segja, að þær haga sjer að miklu leyti eins og skriðlýsnar gera á Íslandi; þær hafast þar helzt við sem þær eru bezt aldar.

5. *Vatnið.* — Það er held jeg ekki eins óholt og margir ímynda sjer. Það er að vísu satt, að það er máske ekki eins hressandi — af því það er ekki eins kalt — eins og uppsprettuvatnið hjer á landi. En þegar við lítum á það, að þær 5,000,000 manna, sem nú byggja Canadaveldi, ná, eptir öllum fyrirliggjandi skýrslum, að jafnaði fullt svo háum aldri sem nokkur þjóð í Evrópulöndum, þá finnst mjer við vera neyddir til að álykta, að vatnið í Canada sje að minnsta kosti ekki sjerlega bráðdrepandi.

6. *Sumarfrost.* — Þetta er ókostur, sem vert er um að tala, af því að frostin geta eyðilagt svo stórkostlega mikið af atvinnuarði akuryrkjubóndans þau árin sem þau gera vart við sig í nokkrum verulegum stíl, og margir Ísl. hafa oft beðið talsvert

fjármunalegt tjón einmitt af sumarfrostum. En samt er nú sú reynslan í Canada, að akuryrkjubændur græða að jafnaði meira fje heldur en kvikfjárræktarbændur, ef báðir hafa líkan stofn til að vinna með.

7. *Haglstormar*. — Þeir eru smáræði eitt í samanburði við sumarfrostin og gera tiltölulega lítinn skaða með jafnaði, þegar litið er til framleiðslumagns ríkisins, þótt þeir auðvitað komi stundum hart niður á einstöku mönnum. Þessvegna er sú skoðan ríkjandi vestra, að sú jörð sje ýmist óbyggileg eða lítt byggileg, sem ekki hefir akurland að geyma. Allir landnemar sækjast mest eptir akuryrkjulandi, og það er þess vottur, að þeir skoða hvorki haglstormana nje sumarfrostin svo fráfælandi, að þeir ekki kjósi helzt akuryrkju sem aðalatvinnugrein eða að minnsta kosti jafnhliða við kvikfjárrækt.

Jeg mætti geta þess hjer — svona innan sviga — að bændur í Manitoba hafa myndað ábyrgðarfjelög gegn haglstormum. Vilji menn tryggja korntegundir sínar fyrir skemdum af hagli, þá gjalda menn í sjóðinn um 25 cent = 93 aurar af hverri ekru, sem korntegundum er sáð í, en fá úr sjóðnum aptur rúma 7 doll. eða um 30 krónur fyrir hverja ekru, sem verður fyrir skemdum. Þetta tekur bitrustu eggina af hagljeljavopnunum, sem vissir menn henda jafnan á lopti til þess að ógna væntanlegum vesturförum með.

Jeg held þessvegna að allar þessar ofsjónir og allar þessar grýlur og allir þessir hleypidómar um ókostina í Canada, sem sumt fólk er svo fullt af, sjeu ávöxtur af grunnhyggni og þekkingarleysi og algerlega ósæmandi eins bóklega upplýstu fólki eins og jeg hygg að Ísl. sjeu. Mjer dettur ekki í hug að segja, að Canada sje laus við allt það sem menn almennt kalla ókosti. En jeg segi að ókostirnir, hvernig sem á þá er litið, og hversu svart sem þeir kunna að vera málaðir, sjeu hverfandi í samanburði við hina miklu kosti landsins, og reynslan hefir sýnt, að allur þorri þeirra Ísl. sem vestur hafa flutt hafa með því bætt kjör sín, og margir þeirra að stórum mun frá því sem þau voru áður en þeir fluttu úr landi. Það eru að vísu til þeir menn,

sem engan hag hafa haft af vesturflutningnum, að því er þá sjálfa snertir, þó að börn þeirra sjálfsagt hafi haft það. En þeir eru örfáir í samanburði við hina sem hefir orðið það til góðs.

Þegar öllu er á botninn hvolft, þá er þó aðaltakmark manna að leita sjer lífsbjargar í sveita síns andlitis, og skapa sjer þannig sjálfstæða og heiðarlega lífsstöðu og leggja grundvöllinn undir framtíð barna sinna. Jeg lít því svo á, að það sje siðferðileg skylda manna, ekki að eins að uppfylla þessar skyldur, heldur einnig að leita þangað sem skilyrðin fyrir tilverunni eru hagfeldust, og skilyrðin fyrir velmegan hinnar komandi kynslóðar vissust.

Þjer hafið reynt, hvernig baráttan fyrir daglegu brauði gengur hjer á landi og getið dæmt um það af reynslunni. En það eru nú um eða yfir 10,000 af landsmönnum yðar, sem hafa reynt þetta bæði á Íslandi og í Canada og geta því dæmt um það frá báðum hliðum, og jeg þori að fullyrða, að þeir eru nú og mega vel vera stórum mun ánægðari með lífskjör sín heldur en þeir voru áður en þeir fluttu vestur.

Það er því ósk mín og von að sem flestir af mínum landsmönnum megi verða aðnjótandi þeirra gæða, sem að mínum dómi eru fáanleg í Canada.

---

# Leiðrjettingar.

**Bls. 12 línu 21 að ofan: ósparlega fyrir óþarflega.**
**— 9 — 9 að neðan: Winnipeg fyrir í Winnipeg.**

